# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, JÚLÍ 1903. NR. 5.


## Sálmr

**út af Matt. 5, 43—48—eftir séra Valdemar Briem.**

(Lag: Í Jesú nafni upp stá).

1. Drottinn lætr sína sól
yfir góða' og illa skína;
öllum sendir geisla sína
gœzkan hans um byggð og ból.
Skín á þig og skín á alla
skæra sólin gœzku hans.
Lát þá og á aðra falla
endrskinið kærleikans.

2. Drottinn sendir dögg á jörð,
yfir tún og eyðisanda,
akrlönd og bera granda,
blómstrgarð og björgin hörð.
Þér, sem drottins dagga njótið,
dreypið þeim á aðra þá;
veitið þeim á grasið, grjótið,
guð svo látið fyrir sjá.

3. Drottinn elskar alla þjóð,
einnig sína eigin féndr,
opinn þeim hans faðmr stendr.
Breytið þannig, börn hans góð;
Þá, sem yðr bölva, blessið,
biðjið guð að náða þá;
þá, sem yðr hata, hressið,
hjálpið þeim, sem yður þjá.

4. Elska fleira' en eigin reit:
fólk þitt, börn þín, föður, móður,
frændr, vini, systur, bróður,
eigin söfnuð, eigin sveit.
Elska fleiri' en eigin landa,
elska fólk um gjörvöll lönd;
aðrar þjóðir einnig standa
undir drottins náðarhönd.

5. Elska þá, sem eru' í dag,
elska börnin eldri tíðar,
elska þá, sem koma síðar;
greiddu þeirra gæfuhag.
Elska menn og málleysingja,
mynd vors guðs og orm í jörð.
Elska þá, með englum syngja:
endrleysta drottins hjörð.

## Helgan og eining lærisveinanna.

**Prédikan, sem séra Jón Bjarnason flutti í byrjan kirkjuþingsins í Argyle 18. Júní 1903.**

TEXTI: Jóh. 17, 17–23

*Helga þú þá í þínum sannleika; þitt orð er sannleikr. Eins og þú sendir mig til heimsins hefi eg sent þá til heimsins. Og fyrir þá helga eg sjálfan mig, svo að þeir sé helgaðir í sannleikanum. En eg bið ekki einungis fyrir þessum, heldr og fyrir þeim, sem trúa munu á mig fyrir þeirra orð. Svo að allir sé eitt, eins og þú, faðir, ert í mér, og eg í þér, svo að þeir og sé eitt í okkur, svo að heimrinn trúi, að þú hafir sent mig. Og þá dýrð, sem þú gafst mér, hefi eg gefið þeim, svo þeir sé eitt, eins og við erum eitt, eg í þeim og þú í mér, svo þeir sé fullkomlega sameinaðir og heimrinn viti, að þú sendir mig og elskir þá, eins og þú elskar mig.*

,,Drag skó þína af fótum þér, því sá staðr, sem þú stendr á, er heilög jörð.'' Þessi há-alvarlega, heilaga rödd, sem forðum kom til Mósesar í Midíans-eyðimörk nálægt Hóreb úr hinum loganda þyrnirunni, ætti ávallt að óma í eyrum vors innra manns, þegar vér söfnumst saman utan um guðs orð. Því hver þáttr af þeim heilaga boðskap, sem við slík tækifæri

er um hönd hafðr, þá er oss öllum kristnum mönnum vitanlegt, að í og með því orði er hin himneska hátign, hinn heilagi og réttláti drottinn drottnanna, guð almáttugr, til vor komandi í því skyni að tala persónulega til hvers einstaks og allra sameiginlega um hið mikla alvörumál sáluhjálparinnar. Guð sjálfr í eigin lifandi persónu er ávallt í orði sínu. Þar opinberar hann veru sína og vilja sinn oss sekum syndurum viðvíkjanda. Og sú opinberan hans er í alla staði fullkomin. En meðal annars, sem þar er opinberað, er þetta: ,,Vor guð er eyðandi eldr.'' Þetta er einn af hinum postullegu vitnisburðum í nýja testamentinu um drottin. Og auðvitað er guð þá slíkr eldr, þegar hann birtist oss mönnunum í hinu heilaga orði sínu. Sá sannleikr var af honum sjálfum hátíðlega staðfestr hinn fyrsta kristna hvítasunnudag samfara því, er fyrirheiti frelsarans um sending heilags anda rættist á postulunum. Því eitt atriði hvítasunnu-undrsins var svo sem alkunnugt er í því fólgið, að uppi yfir þeim kjörnu erindsrekum drottins birtust eins og tungur af eldi, er kvísluðust eg settu sig yfir sérhvern þeirra. Dásamlegt tákn þess, hvers eðlis boðskapr sá yrði, sem þeir myndi bera fram í Jesú nafni eftir að þeir hefði fengið fylling andans. Dýrðlegt stórhátíðartákn til þess að minna alla á hinn guðlega eld, sem kristindómsorðið, hinn spámannlegi og postullegi boðskapr heilagrar ritningar, hefir ávallt í sér fólginn. Samskonar varúðartákn frá drottni sjálfum fyrir alla í sambandi við hið opinberaða orð hans í ritningunni eins og eldrinn í þyrnirunninum fyrir Móses forðum. Há-alvarleg, heilög bending þess, hve hræðilega mikið getr verið í húfi, ef menn að einhverju leyti fara illa eða ógætilega með þá opinberan. Áskoran úr hæstum hæðum, sem öllum ætti að vera ógleymanleg, um það að menn ávallt skuli mœta drottni komanda til þeirra í orðinu heilaga með hinni dýpstu lotning. ,,Drag skó þína af fótum þér, því sá staðr, sem þú stendr á, er heilög jörð''—segir röddin við Móses, og jafnframt er hann varaðr við því, að ganga ekki of nærri. Og vér eins, að því er snertir guðs orð. Menn geta brennt sig á eldinum, ef gálauslega er með hann farið. En sá sérstaki eldr, sem nú er um að rœða, er lang-háskalegastr og hræðileg-

astr, ef of nálægt honum er komið. Þennan sannleik þurfum vér allir ávallt vel að muna í sambandi við heyrn og lestr guðs orðs. En umfram allt hlýtr hann að koma til greina, þegar guðs orðið, sem um hönd skal haft, beinlínis hljóðar um hjartað sjálft í kristindómsopinberaninni,—annað eins guðs orð og það, sem liggr fyrir oss í núveranda texta mínum. Eins og þér heyrðuð, kærir brœðr, er sá texti nú einmitt þannig lagaðr. Vér heyrum þar til frelsarans biðjanda á einhverri allra alvarlegustu stundinni, sem yfir hann leið á hinni jarðnesku holdsvistartíð hans. Textinn er partr af bœninni dýrðlegu, sem hann bar fram fyrir hinn himneska föður sinn í áheyrn postulanna á hinum miklu tímamótum, þá er hann var til þess búinn að fórna sjálfum sér fyrir gjörvallt syndfallið mannkynið, ganga út í píslardauða friðþægingarinnar. Gjörvallt guðs orð er helgidómr; en þegar vér heyrum eða lesum það, sem Jesús segir biðjandi við föður sinn og föður vorn á himnum á þeirri stórhátíðarstund, þá erum vér sannarlega staddir í hinu allra helgasta í þeim helgidómi. Og umfram allt krefst þá þessi boðskapr kristindómsorðsins djúprar og hjartfólginnar lotningar af vorri hálfu. Í œðsta skilningi eiga hér við orðin: ,,Drag skó þína af fótum þér, því sá staðr, sem þú stendr á, er heilög jörð.''

Seinasti fyrirlestrinn, sem Melankton flutti stúdentunum í Wittenberg mjög skömmu fyrir andlát sitt, var út af þessari bœn frelsarans, er hann vígði sig með til friðþægingarpíslanna. Og við það tœkifœri kom hann með þessa yfirlýsing um þá bœn: ,,Aldrei hafa heyrzt háfleygari, helgari, heilsusamlegri og hjartnæmari orð en þessi, hvorki á himni né jörð.'' Og Lúter sagði: ,,Eg er hræddr um, að mér takist ekki að láta koma út hið sanna eðli og afl þessarar bœnar; hún er svo djúp, svo auðug og víðtœk, að engum manni er með nokkru móti unnt að ná þar til botns eða tœma hana.'' Og enn einn af hinum heimsfrægu kennimönnum kirkju vorrar, Filip Spener, áræddi aldrei að prédika út af þessum kapítula í guðspjalli Jóhannesar. Svo djúpa lotning bar sá vottr drottins fyrir því guðdómlega bœnarmáli. En þegar hann lá fyrir dauðanum, lét hann lesa sér bœn þessa alla þrisvar. Með

hikanda huga ætti því vissulega sérhvert smámenni kristninnar að ganga að því að tala út af slíku guðs orði. Með hikanda huga valdi eg mér líka núveranda texta minn; því mér var það fyrirfram ljóst, að mig myndi skorta orð til þess að gjöra efni textans hœfileg skil og að hin ófullkomnu orð mín hlyti að verða því há-heilaga sannleiksmáli algjörlega ósamboðin. En engu að síðr hélt eg mér fast við þennan texta, því hvar sem eg leitaði í guðs orði, fann eg engan boðskap, sem mér frammi fyrir augliti drottins skildist oss riði eins mikið á að leggja oss á hjarta, er vér í þetta skifti kœmum saman á kirkjuþing, eins og einmitt það af hinni miklu œðsta prests bœn drottins vors Jesú Krists, sem textinn hefir inni að halda.

Fyrst af öllu biðr frelsarinn í þeirri bœn fyrir sjálfum sér. Og um leið og hann ber fram þau bœnarorð gjörir hann hinum himnska föður sínum reikningsskap hins spámannlega hlutverks, hins kennimannlega starfs, sem hann að undanförnu hafði verið að vinna að hinni jarðnesku niðrlæging sinni. Markmið þess starfs var það að gjöra föðurinn dýrðlegan á jörðinni. Og í bœninni lýsir Jesús yfir því hiklaust og hátíðlega, að því markmiði sé þegar náð. ,,Eg hefi''—segir hann —,,gjört þig dýrðlegan á jörðinni; eg hefi lokið því verki, sem þú fékkst mér að vinna.'' Og svo biðr hann fyrir sjálfum sér í óaðskiljanlegu sambandi við þessa yfirlýsing, segjandi: ,,Gjör son þinn dýrðlegan'' —,,gjör mig nú vegsamlegan, faðir, hjá sjálfum þér með þeirri dýrð, sem eg hafði hjá þér áðr en heimrinn var.'' Að sjálfsögðu veitist honum það, sem hann þar bað um; því skilyrðinu fyrir þeirri bœnheyrslu var fullnœgt með hinni dýrðlegu spámannlegu starfsemi Jesú í liðnu tíðinni. Bœnheyrslan kemr fyrst fram í dýrð fórnarkærleikans hjá Jesú líðanda og deyjanda, en síðan í upprisudýrð hans. Svo er annar þáttrinn í bœn frelsarans. Þar biðr hann fyrir hinum fámenna hópi þáverandi lærisveina sinna, sem með sívaxanda kærleik og með einlægri, en þótt mjög veikri trú höfðu fylgt honum allt fram að þessari stund, en hlutu nú líkamlega við hann að skilja hræddir og dauðhryggir. Og loks í hinum þriðja þætti bœnarinnar tekr hann að biðja fyrir hinum fjölmenna skara væntanlegra lærisveina víðsvegar

um heim á öllum ókomnum öldum mannkynssögunnar, þeirra allra, sem leiðast myndi til kristinnar trúar fyrir hinn postullega boðskap. Allr fyrsti þáttr bœnarinnar, þar sem hann biðr fyrir sjálfum sér, liggr fyrir utan texta vorn, og sömuleiðis meiri hlutinn af öðrum þættinum, þar sem hann biðr fyrir hinum fyrstu lærisveinum sínum, sem þá voru hjá honum og hlustuðu á bœnina hans alla frá upphafi til enda.

Aðal-efnið í bœn frelsarans fyrir hinum fáu nálægu lærisveinum sínum og hinum mörgu fjarlægu er nákvæmlega hið sama. Með tilliti til hinna fyrrnefndu segir hann: „Heilagi faðir, varðveit þá í þínu nafni!" Síðar gjörir hann nákvæmari grein fyrir þeirri bœnarhugsan, segjandi: „Ekki bið eg, að þú takir þá burt úr heiminum, heldr, að þú verndir þá fyrir illu." Og í upphafi textans biðr hann eins og þér heyrðuð, er hann áðan var lesinn: „Helga þú þá í sannleikanum; þitt orð er sannleikr." Með þeim biðjandi orðum er af frelsaranum bent á trygginguna einu óyggjandi, sem fengizt getr fyrir því að lærisveinar hans á öllum tímum varðveitist í nafni guðs, verndist frá illu. Að eins á sannleikans grundvelli er mannslífinu óhætt í heiminum. Að eins með því að vígja sjálfan sig sannleikanum, láta hann renna sér í merg og bein, getr manninum orðið borgið. En sá sannleikr, sem hér er um að rœða, er guðs orð—orðið, sem Jesús lifði á í hinni mannlegu niðrlæging og hafði allan sinn styrk frá í hinum margvíslegu sáru freistingum, orðið, sem hann gegn um postula sína afhenti kirkju sinni til þess með því að kalla á unga og gamla, ríka og fátœka í öllum áttum heims inn í sannleiksríkið hans, mannkynsfrelsarans, — hið guðinnblásna orð, sem fyrir oss liggr í hinum heilögu ritningum bæði gamla og nýja testamentisins. Þetta er þungamiðjan í bœninni frelsarans fyrir lærisveinunum — þessi orð: „Helga þú þá í þínum sannleika; þitt orð er sannleikr." Í þessu, sem hér er beðið um, er það allt fólgið, sem talizt getr réttilega til lífsnauðsynja lærisveinanna. Eða það hverfa allar aðrar lífsnauðsynjar þeirra fyrir þessari sérstöku, þessari einu miklu lífsnauðsyn. Og í sambandi við þetta megin-atriði fyrirbœnarinnar minnist hann á sporið mikla, sem hann sjálfr

var að stíga á æfiferli sínum einmitt þá, inngöngu sína inn í helgidóm friðþægingarpíslanna, með þessum orðum: „Og fyrir þá — lærisveinana — helga eg sjálfan mig, svo að þeir sé helgaðir í sannleikanum.“ Með öllu sínu bænarlífi að undanförnu hefir hann verið að helga sjálfan sig, eða með öðrum orðum: vígja sig, til hinnar guðdómlegu fórnargjörðar píslardauðans, og seinasta atriðið í þeirri helgan eða vígslu er einmitt þessi dýrðlega bæn hans. En hvorttveggja, bæði undirbúningrinn undir fórnargjörðina og fórnargjörðin sjálf, hefir þann sameiginlega tilgang, að lærisveinarnir fái orðið helgaðir í sannleikanum — guðs orði. Því að aðal-innihald guðs orðs er einmitt Jesús Kristr, enda er hann af Jóhannesi guðspjallamanni, þeim af lærisveinum hans, er næst honum stóð og lengst allra var leyft að líta inn í andans heim, beinlínis kallaðr Orðið, þegar hann er að tala um Jesúm í eilífðartilverunni áðr en hann mannlegu holdi klæddr birtist hér í heimi. „Í upphafi var Orðið, og Orðið var hjá guði, og Orðið var guð“ (Jóh. 1, 1). Fyrst eftir að æfi Jesú í hinni jarðnesku niðrlæging hans var lokið og allt var fullkomnað, sem hann hafði sett sér fyrir að vinna hér á krossferlinum, syndugu mannkyni til frelsunar, gat megin-sannleikr guðs orðs orðið fullkomlega opinber; og þá fyrst skilyrði fengið fyrir því, að lærisveinarnir, sem Jesús hafði útvalið sér úr heiminum, gæti fullkomlega orðið helgaðir í sannleikanum. Þess vegna tengir hann þetta hvorttveggja, helgan lærisveinanna og helgan hans sjálfs, saman á þann hátt sem þér heyrðuð í bæninni. En þegar hér er komið, færist fyrirbæn frelsarans allt í einu stórkostlega mikið út. Hann tekr nú til að biðja fyrir öllum hinum væntanlegu lærisveinum sínum, gjörvallri kristni ókominna alda. Og þótt hann ekki beinlínis taki það fram, hvað það er, sem hann biðr um þeim óteljandi mannslífum til handa, getr engum dulizt, að aðal-efnið í þeim þætti fyrirbænarinnar er eins og eg áðan sagði nákvæmlega hið sama eins og áðr, þegar hann var að biðja fyrir hinum þáveranda litla lærisveinahópi. Hann hugsar um það biðjandi, að hinir mörgu fjarlægu engu síðr en hinir fáu nálægu fái orðið helgaðir í sannleikanum. Enda renna hóp-

arnir báðir, litli hóprinn og stóri hóprinn, nálega undir eins saman í eitt í bœn frelsarans.

Auk þess, sem þegar er tekið fram, er eitt atriði í fyrirbœn frelsarans fyrir lærisveinunum, sem hann auðheyrt hefir sterklega verið að hugsa um og leggr biðjandi ákaflega mikla áherzlu á — það, að þeir ekki sundrist andlega, ekki slitni hver frá öðrum, heldr fái haldið saman, fái lifað í sannarlegri eining andans, — unnið eins og brœðr að hinu háleita hlutverki hinnar sameiginlegu heilögu köllunar, barizt saman, beðið saman í einum anda. Eg bið yðr alla, brœðr góðir, að veita því vandlega eftirtekt, hve mikið ber á þessu atriði í hinni miklu bœn Jesú, sem hann vígir sig með til friðþægingarpíslanna. Í þeim kafla bœnarinnar, sem liggr á undan textanum, svo að kalla undir eins og hann er tekinn til að biðja fyrir hinum fáu lærisveinum hans, sem þá voru, lætr hann þessi orð falla: *svo að þeir sé eitt.* „Varðveit þá“ — segir hann — „í þínu nafni, er þú gafst mér, svo að þeir sé eitt.“ Og eftir að bœnin seinna hefir fœrzt út, svo að hún nær út yfir gjörvalla kristnina í nálægri og fjarlægri tíð víðsvegar um heiminn, endrtekr hann sömu orðin hvað eftir annað, segjandi: „Svo að allir sé eitt, eins og þú, faðir, ert í mér og eg í þér, svo að þeir sé eitt í okkr, svo að heimrinn trúi, að þú hafir sent mig. Og þá dýrð, sem þú gafst mér hefi eg gefið þeim, svo að þeir sé eitt, eins og við erum eitt, — eg í þeim og þú í mér, svo þeir sé fullkomlega sameinaðir“ o. s. frv. Það má með fyllsta rétti segja, að hugsan Jesú um sameining lærisveinanna sé hinn rauði þráðr, sem gengr í gegn um alla fyrirbœnina hans fyrir þeim. Og það að þeir verði eitt og haldi æfinlega áfram að vera eitt er auðheyrt einn aðal-tilgangr fyrirbœnar hans og alls annars, sem hann hefir fyrir þá gjört. Svona stórkostlega mikið vegr þetta sérstaka atriði í huga frelsarans á hinni hátíðlegu bœnarstund. Það er eins og hann við það tœkifœri, ferðbúinn út í dauðann burt úr heiminum, hafi borið meiri kvíðboga fyrir því en nokkru öðru hryggilegu, sem komið gæti fyrir lærisveina hans, að þeir myndi lenda í andlegri dreifing, að bandið, sem binda ætti þá saman, myndi verða slitið sundr,

að syndsamleg flokkaskifting kœmi upp í kirkjunni kristnu, sem gjörði samvinnu meðlima hennar að vexti guðs ríkis inn á við og út á við erviða eða jafnvel ómögulega. Það er meira að segja eins og þetta sé eina hættan, vofandi yfir kristninni, sem þá kemr til greina í huga frelsarans.

Og þegar vér athugum þetta stóra atriði í bœninni, sem hann bar fram fyrir hinn himneska föður sinn á hinni háalvarlegu stund við inngönguna í helgidóm friðþægingarpíslanna, þá minnir það oss á eitthvert hryggilegasta og háskalegasta meinið, sem hinn kristni kirkjulýðr hefir haft til brunns að bera á liðnum öldum víðsvegar um heim: — hina andlegu sundrung, skortinn á samlyndi og bróðurhug, flokkadráttinn, — hina óeðlilegu og vanheilögu margskifting kristinnar kirkju. Svo mikið hefir að þessu sérstaka meini kveðið, ósamlyndinu og einingarskortinum í kirkju drottins, að meðlimir hennar hafa oft og lengi á liðnum öldum í stœrri og minni flokkum borizt á banaspjótum, ofsótt hver annan í megnasta heiftarhug, beitt allri sinni orku til þess að gjöra hver öðrum sem mest illt. Saga kirkjunnar hefir um langar langar tíðir að miklu leyti verið saga um slíka sundrung, slíkan fjandskap, slíkan ófrið í miðri kristninni, og bölvan þá hina margföldu, sem af því ástandi hefir leitt fyrir lönd og lýði. Og á því getr ekki leikið minnsti vafi, að fyrir þessa sök fremr en nokkra aðra hefir það gengið svo afar seint að kristna heiminn eða breiða þar út hið endrfœðanda, helganda og friðanda frelsisljós drottins vors Jesú Krists. Fyrir þessa sök hefir kristindómsnafnið svo títt og víða meðal heiðingjanna orðið fyrir lasti. Að vísu má aldrei gleyma því í þessu sambandi, að drottinn kærleikans og sannleikans hefir aldrei látið sig án vitnisburðar í baráttusögu kirkju sinnar, ekki heldr á hinum ömurlegu myrkratíðum, þegar mest bar á slíkum fjandskap og ófriði meðal kristinna lýða. Það voru engan veginn tómar holdlegar hvatir, sem þá réðu í flokksbaráttunni innan kirkjunnar. Einnig þá, þegar allra raunalegast var útlitið, birtist heilagr andi. Og hann stýrir því svo, að jafnvel sjálf myrkraöflin, þeim sjálfum oft óafvitanda og æfinlega á móti vilja þeirra og tilætlan, verða til þess að hrinda sannleiksmálefni

kristindómsins áfram, undirbúa betri og bjartari tíðir í kirkjunni. Og þó að á þessum allra dimmustu tíðum nálega ekki bæri á öðru hið ytra í framkomu kristinna manna en sundrungareðli þeirra, þá er oss þó hiklaust óhætt að trúa því, að líka þá hefir undirniðri verið til lifanda band, sem batt saman hjörtu þeirra allra, er í raun og veru voru lærisveinar frelsarans, þrátt fyrir það að þeir einatt berðist í andstœðum kirkjulegum fylkingum. Líka er þess að minnast, að hin blóðugu trúarbragðastríð koma nú ekki lengr fyrir meðal þjóða þeirra, er kristið nafn bera. Þjóðirnar berjast öðru hverju enn hver á móti annarri, eins og allir vita; en sá ófriðr er ekki út af trúmálum eða trúarbrögðunum, heldr eingöngu út af veraldlegum ágreiningsmálum. En engu að síðr heldr þó flokkaskiftingin áfram í kirkjunni og er samvinnu kristinna lýða stórvægilega enn til hindrunar, gjörir hana meira að segja mjög víða ómögulega. Og eigi er unnt að loka augum sínum fyrir því, að slík sundrung hefir að sumu leyti stórum vaxið, margfaldazt, á síðustu mannsöldrum eftir að hin eiginlegu stríð höfðu fœrzt út úr kirkjunni. Kirkjuflokkunum hefir stór-fjölgað. Og margbreytilegleiki trúarjátninganna, flokkseinkunnanna ýmislegu, orðið meiri og meiri. Að þessu leyti hefir kristin kirkja aldrei verið eins margskift og tvístruð eins og einmitt nú. Og þó að það vissulega sé í hendi drottins að leiða þetta út til góðs, og þótt vér getum bent á mörg gleðileg merki þess, að hann hagar þannig stjórn sinni nú eins og áðr, þá er þó sök mannanna, sem valda eða valdið hafa hinni trúarlegu og kirkjulegu sundrung, eins þung fyrir því. Alveg eins og synd brœðra Jósefs forðum, er þeir seldu hann í þrældóm, burt frá sér og hinu sameiginlega heimili hans og þeirra, til Egyptalands, var jafn-saknæm og fordœmanleg fyrir því, þótt algóðr og almáttugr guð sneri því illa athœfi til góðs fyrir hann, sem fyrir því ranglæti varð, og óteljandi menn aðra. Og enn fremr: alveg eins og krossfesting guðs sonar sjálfs var sama biksvarta, óviðjafnanlega stórsyndin fyrir því, þó að almætti og forsjónar-speki guðs gæti út af henni leitt allsherjar hjálpræði, fullnaðar-frelsan, fyrir mannkynið. Mannkynsfrelsarinn Jesús hefir kvatt alla lærisveina sína —

undir hans heilagri forustu og sameiginlegu hermerki, sem hann hefir fengið kirkjunni í hendr — til baráttu fyrir málefni sáluhjálparinnar. Gegn vonzkunni í heiminum og gjörvöllu stórveldi myrkraríkisins eiga þeir að berjast með hann fyrir herforingja eins og ein óslitin samfelld fylking. En sú fylking er því miðr stórkostlega rofin, alla vega sundr tætt; allskonar sérskoðanir ráðandi í stað hinnar sameiginlegu trúar; og þar af leiðanda svo og svo margir kirkjulegir flokkar, nærri því óteljandi slíkir flokkar, sem að meira eða minna leyti eru hver öðrum andstœðir, líta hornauga hver til annars og tefja oft stórkostlega hver fyrir öðrum. Þetta er eitthvert hið mesta hryggðarefni, sem hugsazt getr. Og það ætti að verða öllum kirkjunnar lýð hin sterkasta hvöt til þess að láta hin biðjandi orð frelsarans í texta vorum: ,,svo þeir''—lærisveinarnir — ,,sé eitt'' — verða megin-atriði í öllum sínum bœnum og allri sinni trúarlegu starfsemi.

Og svo hugsa eg sérstaklega til vorrar eigin kæru litlu þjóðar og kirkjufélagsins íslenzka hér. Eg hugsa jafnt um megin-hluta þjóðar vorrar, þann sem enn á heima á Íslandi, eins og um það brot af henni, sem dreift er víðsvegar út um heimsálfu þessa, hér nyrðra í Canada, og fyrir sunnan ,,línuna'' í Bandaríkjunum. Fámennasta þjóðin af öllum þeim í heiminum, sem kallaðar eru menntaðar, erum vér Íslendingar vafalaust. Og til kristinna þjóða teljumst vér vitanlega. En nær er mér að halda, að hvergi sé tiltölulega eins mikið um andlega sundrung, óeining, flokkadrátt, ósamlyndi eins og einmitt hjá oss,—hvergi því vissulega meir áríðanda að beðið sé til drottins heitt og hjartanlega, títt og sterklega upp yfir þjóðarheildinni íslenzku allri með þessi orð Jesú í huganum: ,,svo að þeir sé eitt'' — ,,svo að allir sé eitt''. Gætið, kærir tilheyrendr, að því, hvað stjórnmálunum á Íslandi líðr nú einmitt á yfirstandandi tíð. Eins og hér í landi voru þar fyrir skemmstu tveir andstœðir stjórnmálaflokkar, hvor um sig með sérstakri stefnuskrá (eða ,,prógrammi''— eins og oftast er kallað). Það að þeir, sem slíka sundrleita flokka skipa, berjist hvorir á móti öðrum er í alla staði eðlilegt og óaðfinnanlegt, svo framarlega sem drengilega er

barizt fyrir því, er hvorir mennirnir um sig eftir beztu vitund telja sannleik, réttlæti og blessan fyrir land og lýð. En nú vill svo til, að skoðanir beggja flokkanna um aðal-málið, sem ágreiningnum hafði valdið og flokkaskiftingunni hafði ráðið, sameinast. Að sjálfsögðu hefði mennirnir, sem flokkana höfðu áðr skipað, þá einnig átt að sameinast. En það verðr ekki, því miðr. Sundrungin eyðist ekki. Flokkaskiftingin heldr áfram, og verðr verri, ískyggilegri og ömurlegri en nokkurn tíma áðr, því nú er þar ekki lengr barizt um málefni, heldr um menn — eða með öðrum orðum um völdin, það, hverjir í næstu framtíð eigi að ráða. Þetta er skuggsjá nútíðarþjóðlífsins íslenzka, og í þeirri skuggsjá opinberast ekki að eins eitt aðal-meinið, sem þjóðlífið á Íslandi hefir til brunns að bera, heldr og það, sem hörmulega almennt gengr að oss Vestr-Íslendingum og fremr flestu eða öllu öðru stendr kirkjulega félagskapnum vor á meðal fyrir þrifum einmitt nú. Þetta er eldgamalt íslenzkt þjóðernismein, og liggja margar orsakir til þess, að það hefir svo stórkostlega magnazt hjá oss í liðinni tíð,—orsakir, sem nú er ekki timi til að rekja eða sérstaklega að gjöra grein fyrir. En víst er um það, að þá er kirkjufélag þetta myndaðist nú fyrir 18 árum eða vel það, þá vakti það fyrir oss, að sundrungar-tilhneigingin væri sorglega rík í þjóðernislegu eðli voru og að lang-hættast væri við því, að á því skeri strandaði kirkjuskipið vort litla íslenzka, sem vér þá með aðstoð drottins og samkvæmt bending hans vorum að hrinda frá landi. Með tilliti til þess gáfum vér væntanlegu trúmála-tímariti voru, sem ákveðið var til þess að verða málgagn kirkjufélags þessa, nafnið *Sameiningin*. Að öðru leyti skal eg ekkert tala um það blað. Það á ekki við, þar sem eg hefi verið svo mikið við það riðinn. En það hlýt eg að segja, að það var fyrst framan af og lengi fram eftir ráðandi gleðilega mikill einingarandi að minnsta kosti á meðal prestanna í kirkjufélagi þessu og þeirra leikmanna, sem helzt stóðu fyrir kirkjumálunum. Það ber nú miklu meira á óeining, sundrlyndi, flokkadrætti vor á meðal. Og fyrir þá sök er samvinna vor nú orðin erviðari. Þetta þarf að læknast. Og það getr með guðs hjálp læknazt. Frelsarinn kallar oss

hingað á þetta kirkjuþing til þess, að þessi sjúkdómr læknist. Hann er læknirinn, óyggjandi, almáttugr, nærgætinn, algóðr læknir. Allt er undir því komið, að vér, sjúklingarnir, syndararnir stórseku, leggjum oss í auðmýkt hjartanlegrar iðrunar og biðjandi trúar undir hina blessuðu læknishönd hans. ,,Helga þú þá í þínum sannleika; þitt orð er sannleikr'' — segir hann í hinni dýrðlegu bœn við föðurinn. Um það biðr hann enn uppi yfir oss í himninum. Í þessu, sem hér er tekið fram af honum sjálfum biðjanda, er fólgin lækningin —lækning sundrungar-sjúkdómsins eins og allra annarra andlegra og kirkjulegra sjúkdóma. Þetta er hin eina sanna og óyggjandi undirstaða sameiningar vorrar í trúnni og lífinu. Margt annað hefir verið reynt víðavegar um lönd til þess að framleiða kirkjulega eining, tengja menn kirkjunnar saman, styðja félagslíf þeirra; en það hefir allt bilað og brugðizt. Ekkert komið að haldi nema þetta — að menn legði sig undir hönd drottins og léti hann svo helga sig í sannleikanum, sannleika hans eigin orðs. Með því einu móti geta hinar syndsamlegu sérskoðanir, óeinlægnin, eigingirnin og allt annað illt, sem leiða vill til sundrungar í kirkjunni, eyðzt og dáið út í mannshjartanu. Það kostar vitanlega sársauka að ganga undir þessa lækning, hina drottinlegu helgan í orðinu, sem er skilyrðið fyrir því, að lærisveinarnir verði eitt. Þetta er sjálfsafneitan, sannkölluð fórnargjörð. En höfum allir hug til þess að þola þann sársauka í Jesú nafni, kirkjunnar velferðar vegna og hinnar persónulegu sáluhjálpar vorrar vegna. Og göngum svo inn í helgidóm bœnar frelsarans biðjandi fyrir sjálfum oss um það sama sem vér heyrum hann þar biðja um. Og er vér nú krjúpum niðr við kvöldmáltíðarborðið, festum þá biðjandi huga vorn við þessi orð drottins Jesú: ,,svo að allir sé eitt.''

---

## Kirkjuþingið síðasta.

Nítjánda ársþing kirkjufélags vors var eins og áðr hafði auglýst verið sett í kirkju Argyle-safnaða í Manitoba fimmtudaginn 18. Júní og stóð yfir nálega heila viku. Því var slitið hinn 24. skömmu eftir miðdegi.

Prédikanin, sem flutt var við guðsþjónustuna í þingbyrjan, er prentuð hér á undan í blaði þessu.

Gjörðabók þings þessa var ályktað að gefa skyldi út í sérstökum ritlingi, eins og tveggja næstu kirkjuþinga á undan. Prentan þess ritlings verðr bráðum lokið, og verðr hann svo til sölu hjá öllum kirkjuþingsmönnum.

Ekkert kirkjuþing hjá oss hefir verið eins fjölmennt og þetta síðasta. Tala reglulegra þingmanna, presta og erindsreka frá söfnuðum kirkjufélagsins, var nú 50. Þar af 6 prestar, sem að undanförnu hafa heyrt kirkjufélaginu til. Hinn sjöundi (séra Oddr V. Gíslason) kom að eins snöggvast á þingið. En auk hinna reglulegu þingmanna sátu þeir hr. Pétr Hjálmsson, guðfrœðiskandídat, sem næstliðið ár hafði verið missíóneri kirkjufélagsins, og hr. Kristinn K. Ólafsson, guðfrœðis-nemandi frá hinum lút. prestaskóla í Chicago, á þinginu allan tímann með fullkomnum þingmanna-réttindum, og enn fremr séra Einar Vigfússon, sem veitt var málfrelsi.

Játning þeirri, er þingmenn að undanförnu hafa undir skrifað um leið og þeir settust á þing, var í þetta sinn breytt nokkuð og vafalaust til batnaðar. Eins og hún áðr var orðuð gekk hún frelsi manna of nærri, þar sem samkvæmt bókstaf hennar þeir, er lenti í minna hluta við atkvæðagreiðslu í því eða því máli, virtust skyldir til, ekki að eins að beygja sig fyrir ályktan meira hlutans, heldr og til að vinna að málinu í því horfi á móti sannfœring sinni. Tilgangr játningarinnar er sá að brýna hátíðlega fyrir þingmönnum löghlýðnisskyldu þeirra við kirkjufélagið, og sá tilgangr er beinlínis tekinn fram í játningunni með því orðalagi, sem hún nú hefir fengið.

Auk þessa játningarmáls voru 12 mál á dagskrá þingsins. Þeirra lang-þýðingarmest voru tvö: missíónar-mál kirkjufélagsins og skólamálið.

Í missíónar-málinu gjörðist það merkast, að þingið ályktaði í einu hljóði að biðja hr. Pétr Hjálmsson að veita kirkjufélaginu framvegis samskonar þjónustu eins og áðr, gjörast reglulegr missíónar-prestr þess, með 720 doll. launum; og tœki hann þeirri köllun, skyldi hann þegar á þinginu verða prestvígðr. Jafnframt var honum þakkað fyrir vel unnið

verk á liðnu ári. Hann tók kölluninni, og vígði forseti kirkjufélagsins hann svo með aðstoð hinna prestanna við mjög fjölmenna guðsþjónustu sunnudaginn 21. Júní. Séra Rúnólfr Marteinsson prédikaði þá út af guðspjalli dagsins: dœmisögunni um hina miklu kvöldmáltíð. En séra N. Steingrímr Þorláksson flutti ávarp í sambandi við prestsvígslu-athöfnina. Hann las og upp æfisögu kandídatsins ritaða af hinum síðarnefnda. Og birtist sú æfisaga í „Sam."

Þá réð og nefnd sú, er sett var í missíónarmálinu (séra Friðrik J. Bergmann, séra Björn B. Jónsson, Þorleifr Jónsson, Árni Jónsson, Gísli Eiríksson og Þorgrímr Jónsson), til þess, að séra Einari Vigfússyni væri samkvæmt tilboði hans eða beiðni gefið tœkifœri til að gjöra tilraun til missíónarstarfsemi fyrir kirkjufélagið (fyrst um sinn í fjóra mánuði) gegn ofr lítilli þóknan, og benti nefndin á staði þá, þar sem hann skyldi starfa (Grunnavatnsbyggð, Pipestone og Brandon). Og þessa tillögu samþykkti þingið.

Eins og fyrirfram var búizt við var á þinginu all-mikill ágreiningr út af skólamálinu, og gekk mikill tími til þess að komast þar að nokkurri niðrstöðu. Eftir að nefnd sú, er haft hefir það stór-mál með höndum á liðnu ári, hafði skilað af sér og lagt fram tillögur sínar, var því vísað til sérstakrar fjölmennrar þingnefndar, sem í voru fulltrúar allra hinna ólíku skoðana því viðvíkjandi. Ekki tókst þeirri nefnd að verða algjörlega á eitt sátt. Og málinu var aftr vísað til nefndarinnar, er hún hafði lagt fram álit sitt. Síðan breytti hún talsvert tillögum sínum, og náðu þá tillögur meira hluta nefndarinnar samþykkt alls þorra þingmanna. Skólamálið var einkum á tveim fundum rœtt á þinginu (22. og 23. Júní). Á fyrra fundinum töluðu ekki færri en 20 þingmenn, sumir oftar en einu sinni, og sumir lengi; en 11 á hinum síðara. Tilfinningar manna hitnuðu stundum til muna meðan á þeim umrœðum stóð; en friðsamlega og í bróðerni skildu menn þó við málið. Niðrstaðan var þessi: Hinu íslenzka kennaraembætti kirkjufélagsins í sambandi við Wesley College í Winnipeg skal næsta ár haldið áfram, og séra Friðrik J. Bergmann hafa það á hendi eins og áðr. En auk samskonar standandi skólamálsnefndar (Friðjón Friðriksson, Sigtryggr Jónasson, N. Steingrímr Þorláksson, Tómas H. Johnson, Magnús Paulson, Árni Sveinsson, Rúnólfr Marteinsson) eins og þeirrar, er verið hefir að undanförnu, setti þingið tvær aðrar nefndir, aðra til þess að rannsaka, hvort kirkjufélaginu er fœrt að byrja á sjálfstœðri skólastofnan í Winnipeg á næsta ári (séra Friðrik J. Bergmann, Tómas H. Johnson, W. H.

Paulson, dr. B. J. Brandson, Elís Þorvaldsson), en hina til þess, ef hitt þykir ótiltœkilegt, að reyna að stofna annað íslenzkt kennara-embætti við einhvern College-skóla í Bandaríkjunum. Í þessa síðastgreindu nefnd kaus þingið að eins þá menn, sem heimili eiga þar syðra (dr. B. J. Brandson, séra Björn B. Jónsson, Bjarna Jones, Daníel J. Laxdal, séra Hans B. Thorgrímsen).

Tveir nýmyndaðir söfnuðir (Swan River-söfnuðr og Trínitatis-söfnuðr í byggðinni við Big Grass, Man.) voru á þinginu teknir inn í kirkjufélagið. Söfnuðir kirkjufélagsins eru nú 36 að tölu.

Séra Friðrik J. Bergmann flutti á þinginu fyrirlestr ágætan („Krists mynd úr íslenzkum steini"). Annan fyrirlestr stóð til að séra N. Steingrímr Þorláksson flytti, en því miðr fórst það fyrir.

Fastákveðið var, að trúmálsumrœður (um *holdtekju drottins vors Jesú Krists*) fœri fram síðasta kirkjuþingsdaginn, með séra Hans B. Thorgrímsen sem frummælanda. En af þeim umrœðum gat ekki orðið, því útför *Skafta Arasonar*, sem andaðist nóttina á undan, fór fram síðara hluta þess dags, og var þinginu fyrir þá sök slitið fáeinum klukkustundum áðr en upphaflega var til ætlazt. Sú hátíðlega sorgarathöfn kom þannig í staðinn fyrir trúmálsumrœðurnar og studdi sennilega sterklega að því, að kirkjuþingsmenn skildi hver við annan með klökkum og upplyftum hjörtum og biðjandi fyrir sjálfum sér og hinum sameiginlegu kirkjulegu félagsmálum vorum í Jesú nafni.

Aðal-embættismenn kirkjufélagsins voru allir endrkosnir og varaskrifari einnig. En til varaforseta kaus þingið séra N. Steingrím Þorláksson og til varaféhirðis Jón J. Bíldfell.

Sunnudagsskólaþingið og bandalagsþingið, sem nú voru haldin meðan stóð á sjálfu kirkjuþinginu, nutu sín ekki vel sakir langtum of naums tíma. Það ætti vissulega að skilja þau algjörlega frá kirkjuþingunum, og þá sennilega helzt að halda þau að vetrarlagi eftir nýár.

Viðtökurnar, sem þeir allir, er kirkjuþingið sóttu, nutu af hálfu Argyle-búa, voru í mesta máta höfðinglegar og hjartanlegar. — Næsta kirkjuþing á að halda í Winnipeg samkvæmt tilboði frá Fyrsta lúterska söfnuði þar.

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa „Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

Prentsmiðja Lögbergs.— Winnipeg.